


# ÍSLENZK
# STAFSETNINGARORÐBÓK

BJÖRN JÓNSSON

HEFIR SAMIÐ

AÐ TILHLUTUN BLAÐAMANNAFÉLAGSINS

REYKJAVÍK
ÍSAFOLDARPRENTSMIÐJA
1900

ÍSLENZK

# STAFSETNINGARORÐBÓK

---

BJÖRN JÓNSSON

HEFIR SAMIÐ

AÐ TILHLUTUN BLAÐAMANNAFÉLAGSINS

---

REYKJAVÍK
ÍSAFOLDARPRENTSMIÐJA
1900

# Formáli

*Tildrög þessa kvers eru samtök Blaðamannafélagsins fyrir fám missirum um útrýming hins sívaxandi stafsetningarglundroða í íslenzku máli, sem spillir tungu vorri og gerir ritmálið torveldara æskulýð vorum en ella mundi.*

*Með því að félagið gerði sér að reglu, að sneiða hjá sérkreddum og þarflausri nýbreytni, var viðleitni þess mætavel tekið; gekk þorri lærðra manna á landi voru þegar í lið með félaginu og aðhyltist frumvarp þess til stafsetningarsamþyktar, sem studdist mestmegnis við rithátt þann, er einhver hinn mesti íslenzkufræðingur vor, dr. Jón Þorkelsson rektor, hafði fylgt um langan aldur og ýmsir tekið eftir honum. Mótspyrnu hefir engrar vart orðið utan frá tveimur mönnum, er hver maður hér um bil gekk að henni vísri frá fyrir fram: aðaluppihaldsmanni skólastafsetningarinnar, sem svo er nefnd, og einum stórstígum nýbreytingamanni í þessari grein, er barist hafði mörg ár fyrir sinni víðtæku sérkreddu, en ekkert á unnist. En félagið* h l a u t *að vísa þeim ritháttum báðum á bug fyrir fram, með því að fengin var óræk vissa fyrir almennu samkomulagsleysi um þá: skólastafsetningin hafði aldrei hlotið það gengi, að eigi gerðust margir henni fráhverfir, jafnskjótt sem þeim var það frjálst, auk ýmissa rithöfunda hinnar eldri kynslóðar, er aldrei höfðu fylgt henni; en hina fekst varla 1 af 1000 til að aðhyllast, þeirra er málið rita eða kenna.*

*Ritmálið er sameign þeirra, er það nota. Fyrir því er bæði rangt og einnig ókleift, að breyta búningi þess, stafsetningunni, öðru vísi en með samkomulagi þeirra í milli, — milli fullveðja sameigenda ritmálsins. Einróma samþykki um slíkt fæst vitanlega aldrei. Verður því jafnan að láta sér lynda þar eindregið meiri hluta atkvæði, og sé í þeim meiri hluta þorri hinna málfróðustu og ritfærustu manna þjóðarinnar. Því rífari, sem meiri hlutinn er,*

*því minna áhorfsmál er að gera hans vilja að almennri reglu, er allir þeir verði að hlýða, sem ófullveðja eru í ritmálsfélaginu (nemendur í skólum o. s. frv.).*

*Birt voru í Ísafold á sínum tíma nöfn þeirra manna, er rithátt vorn aðhyltust, sjá það blað $^{29}/_{10}$ 1898 og $^{25}/_{1}$ 1899. Síðan hafa enn fleiri við bætt, og þeirra á meðal tveir langhelztu rithöfundarnir meðal Vestur-Íslendinga, þeir síra Jón Bjarnason (í nýprentuðu höfuðriti sínu: Helgidagaprédikunum) og síra Friðrik J. Bergmann. En mestalt það, er prentað hefir verið í Reykjavík síðustu tvö árin, er með vorri stafsetningu, þar á meðal barnalærdómskver og húslestrabækur. Er því stafsetning þessi orðin býsna-algeng, og hefir ekki vottað fyrir öðru en að almenningur kunni henni mætavel.*

*Mjög er eðlilegt, þótt framkvæmd fyrnefndrar stafsetningarsamþyktar hafi að sumu leyti orðið nokkuð á reiki framan af, og að bólað hafi á minni háttar afbrigðum frá henni í rithætti samþyktarmanna sjálfra. Þau eru mestöll óviljandi gerð, sumpart í ógáti og sumpart af miður glöggu orðalagi samþyktarinnar á stöku stað; hún var bráðabirgðasmíði. Eldri miklu er skólarithátturinn og rækilegar frá þeim reglum gengið; og hafa þó alla tíð smá-afbrigði frá honum verið eigi óalgeng, og það af líkum ástæðum — ógætni eða þekkingarskorti, þrátt fyrir margra ára kenslu í hinum lærða skóla.*

*Nýtilegt orðasafn er eina ráðið til að afstýra slíkum misfellum; enda hafði Blaðamannafélagið hugsað sér og ráðgert frá upphafi, að fá almenningi slíkt safn í hendur, og hafði aldrei búist við neinni festu í samþyktar-rithætti sínum fyr en það væri fengið.*

*Vér höfum lengi sárþarfnast slíks orðasafns eða orðabókar, miklu lengur en síðan er Blaðamannastafsetningin komst á stokkana. Ætti fyrir því kver þetta að koma í góðar þarfir öllum þeim, er íslenzka tungu rita, nærri því hvaða rithætti sem þeir fylgja. Og sérstaklega er munurinn á skólastafsetningunni og vorum rithætti, blaðamanna, eigi meiri en svo, að hvorirtveggja rita meiri hluta orða alveg eins, eða að minsta kosti mestalt það, er vandasamast er í íslenzkri stafsetningu, t. d. ber þeim alveg sam-*

*an um, hvar rita skuli* **y** *og* **ý**, *og* **z** *að allmiklu leyti; ennfremur um, hvar rita skuli granna stafi eða breiða. Er því yfirleitt mjög auðvelt fyrir skólastafsetningarmenn, að hafa mikið góð not þessarar bókar; alt af er vandalaust fyrir þá að rita* **je** *þar, sem vér ritum* **é**, *eins hitt, að rita* **p** *á undan t, og ennfremur vandalítið að tvöfalda samhljóða þar, sem við á eftir þeirra rithætti; sömuleiðis, að rita* **z** *í stað* **ðs**, **ds** *eða* **ts** *í öllum beygingarendingum sagnorða, þótt vér gerum það að eins í rótarbeygingum þeirra. Þá er munurinn hér um bil upp talinn.*

*Fullyrða má, að naumast sé nokkur maður svo vel að sér í íslenzku, að hann hafi á hraðbergi réttan ritthátt hvers orðs. Að minsta kosti er víst um það, að allmörg orð eru þau í málinu, sem fjöldi lærðra manna, hvað þá heldur leikra, er í töluverðum vafa um, hvernig réttast sé að rita, og þurfa þá nokkuð fyrir að hafa, að leita uppi hið rétta, hvaða algengum rithætti sem þeir fylgja ella. Þá er mun handhægra að grípa til stafsetningarorðbókar, er sýnir viðstöðulaust, hver sé hinn réttasti rithátttur vandritaðra orða, að því er framast er kostur á að vita eða færustu stafsetningarfræðingar hafa orðið ásáttir um.*

*Reynist safn þetta, sem eg vona, eigi fjær fyrirsettu markmiði en þess kyns frumsmíði eiga að sér, þá er síður en svo, að undirritaður höf. þakki sér það að mestu, hvað þá heldur öllu leyti. Eg hefi að sjálfsögðu ekki einungis hagnýtt mér orðabækur þær og orðasöfn, sem vér eigum í bókmentum vorum, heldur notið þar á ofan mikils fulltingis mér færari manna. Það eru þeir adjunkt Pálmi Pálsson, íslenzkukennarinn við hinn lærða skóla vorn, og adjunkt Geir T. Zoëga, orðbókahöfundurinn. Þeir hafa báðir yfirfarið vandlega og með allmikilli fyrirhöfn handrit mitt undir prentun, því til mikilsverðrar umbótar, en hr. P. P. auk þess lagfært ýmislegt í próförk. Sams konar aðstoð hafa þeir og veitt mér, meðan á prentun stóð, félagar mínir í Blaðamfél., þeir Jón Ólafsson og Vald. Ásmundsson ritstjórar, — einkum J. Ó (viðtækari og fyrirhafnarmeiri). Er því síðasti frágangur ritsins í raun réttri sameiginlegt verk vor allra. Loks hafði dr. Jón Þorkelsson rektor af*

*venjulegri góðfýsi sinni leyft mér að leita síns úrskurðar, er vér kæmumst í ógöngur í stöku atriðum eða oss bæri á milli, þeim er að ritinu hafa unnið; og hefir það komið að góðu haldi. Hefir því einskis verið ófreistað látið til að leysa svo vel úr hverjum vanda, sem kostur var á eftir atvikum.*

---

*Nokkurar stafsetningarreglur (bls VII) er að eins lauslegt ágrip af nokkurum hinum helztu þeirra. Að öðru leyti vísum vér í Ritreglur V. Á, nýjustu útgáfu (1899).*

---

*Um viðbótina: Nokkur mállýti, er það að segja, að orð þau og orðtæki, sem þar eru talin, eru hvergi nærri öll rángmæli í sjálfum sér, heldur er það hitt, að þau eru þá þrásinnis höfð í rangri merkingu; og er þeim litla bráðabirgðaleiðarvísi ætlað að benda viðvaningum á, hvernig betur megi þar að orði komast að jafnaði.*

*Þess skal getið, að flestöll eru rangmælin (bögumæli, dönskuslettur o. fl.) tekin úr íslenzkum ritum, nýjum eða mjög nýlegum.*

Reykjavík í septembermán. 1900

*B. J.*

## Nokkurar stafsetningarreglur

1. Granna raddstafi einfalda skal rita næst á undan *ng* og *nk* í sömu samstöfu, en hvorki tvíhljóða né breiða raddstafi, nema *æ* (og *ó* má rita í samandregnum orðum, t. d. kóngur).

2. Rita skal *é* þar, sem *je* er fram borið, — nema í nafnorðum þeim, sem eru að upphafi hluttaksorð núlegrar tíðar sagna, er enda í nafnhætti á *ja*: þiggjendur, seljendur, fjendur [fjáendur], og í útlendum sérnöfnum (Jesús o. fl.)

3. Stafina *y* og *ý* skal rita í stað *i* og *í* (hljóðið sama), þar sem í rót orðsins er *o, u, io, iu (jo, ju)* eða *ó, ú, ió, iú (jó, jú)*.

4. Rita skal í alíslenzkum orðum *f* og *g* næst á undan *t* í samstöfu, en ekki *p* (*pp*) né *k*, nema rót orðsins í öðrum myndum þess endi á þeim stöfum.

5. Eigi skal rita *j* næst á eftir *g* eða *k*, ef á eftir þeim stöfum fer í sömu samstöfu *e, i, í, æ, ei* eða *ey*.

6. Rita skal *z* í stað *ds, ðs, ts* eða *tts* þar, sem rót orðs endar á *d, ð, t* eða *tt*, en *s* eitt heyrist í framburði og sé það (*s*-ið) ekki fallending.

7. Tvöfaldan samhljóð á undan öðrum samhljóð skal að eins rita:

a., ef hinn eftirfarandi samhljóður er beygingarending, sú er byrjar á *n* eða *r*, eða fallending á *s*, eða *n* fer á eftir *ll*;

b., í samsettum orðum (en ekki afleiddum), er síðari samhljóðurinn er upphaf hins viðskeytta orðs, hvort heldur það er sjálfstætt orð eða greinirinn: hreppnum, leggnum, bekknum.

Raddstafabræðurnir *j* og *v* eru hér (í þessum tölul., 7) ekki taldir með samhljóðum.

# ÍSLENZK
# STAFSETNINGARORÐBÓK

---

**BJÖRN JÓNSSON**

**HEFIR SAMIÐ**

**AÐ TILHLUTUN BLAÐAMANNAFÉLAGSINS**

---

**REYKJAVÍK**
**ÍSAFOLDARPRENTSMIÐJA**
**1900**

**Andríðsey** (Andréseyt†)
**anddyri** andfætis andfætingur andgeyfla andhælis- andlit andnes (annes), andorða andramur andremi andrá andskara andskoti andspænis andstreymi andstreymis andstygð andsvar (ansvar†) andsælis andviðri andvirði andvirki (annvirki†) andvitni andóf andæfa
**anker**: hálfanker
**annar**: annan öðrum annarra
**annarstaðar** (annars staðar)
**annboð** (amboð†) annmarki
**annexía**
**annríki** annsamur annsemi
**ant** (um e-ð)
**anza**
**apaldur** apalgrár
**api** apynja
**arfi** arfavisk
**arfur** afgengur arfleifandi arfleifð arfleiðandi arfleiðsluskrá arfnyti arfvon arfþegi
**Arnaldsstaðir** (Arnilsstaðir† Arnhólsstaðir†)
**Arnfinnur** Arndís Arngerðareyri Arnleif
**arinn** (arin arins arni, flt. arnar), arinelja arinhilla
**atbeini** atburður atferli atfylgi atgeir atgervi (atgjörfi†) athlægi athugall athugi athvarf athygli athæfi athöfn atkvæði atlaga atlot atlæti atorka atreið atrenna atriði atverknaður atvik atvist atyrða
*atkeri*†=akkeri
*atla*† = ætla
**Atlantshaf**
**auðga** auðkýfingur auðlegð auðsæld auðæfi
**auðheyrt** auðkendur auðkenni auðmýkt auðn auðséður auðsiglt auðsóttur auðsveipni auðsveipur auðsýna auðsær (auðsæjan auðsæjum auðsæir), auðtrygð auðtryggi auðveldur
**Auðnir** (Auðnar†)
**Auðun** (es. Eadwin, Auðuns, þgf. Auðuni), Auður (kvk.)
*auðvirðilegur*† = auvirðilegur
**aufúsa** aufúsugestur
**auga** (augna) augabragð augabrún (augnabrúnir, augabrýr†) auglýsing augnablik augsýn
**auka**: eyk jók juku jóku (uku†) yki (jyki) ykjum aukist, aukapinkill auknefni
**aukvisi**
**aumingi** aumka (aumkva†) aumkunarlegur aumnögl.
**aur** (sandbleyta) aurar aurriði= urriði
*aur*† = eyrir eyri, t. d. eg á ekki eyri (aur†) í buddunni
**aurar** (flt. af eyrir) auragirnd.
**ausa** eys jós jusum (jósum) jysi
**austfirzkur** austrænn Austurálfa Austur-Indíalönd austurrískur (austurrikskur†)
**auvirða** (= óvirða), auvirðilegur (auðvirðilegur†) auvisli = usli
**ax**, flt. öx
**axarhyrna** axarskaft
**axla** axlaband axlarliður
**Aþena** Aþenuborg

**ábristir** [sv. briest, e. beestings; ábrystir†] ábrýði ábýli ábyrgð ábyrgðarmaður ábyrgjast
**áðurnefndur**
**áfangi** [áivangur] áfrýja áfýsa
**ágengni** ágengt ágirnd ágizkun
**áherzla** áheyrandi áheyrilegur á-

heyrn áheyrsla áhrif áhrinsorð (áhrinsorð†) áhyggja
**áfir** (mjólk, áir†)
**ákefð**
**áleitni** álengdar álitlega álygi
**álfkona** álfur
**álft** álftaver
**Álfvör** (Alvör)
**álykta** álykt ályktun
**ámátkur** ámátlega
**ánýja**
**ár-angur** árbýll árdegis árgæzka árla
**árensli** áreitni áreynsla (áreynzla†)
**á-reyður** (silungur) árkvísl ármynni
**Ásdís** Áskell (þgf. Áskatli og Áskeli)
**áseilinn** áseilni ásetning ásetningur áskotnast áskynja ásmegin
**Ásmundur** (Ásmundar) Ásmundsson Ásný
**Ástralía** ástralskur
**ásteyting** ást-úðlegur ásýnd ásynja
**áttræður** áttæringur (áttahringur†)
**ávalt** (sífelt) ávalur áviðris ávöxtur
**ázt**: þú ázt öll berin; heyið ázt illa

**baðlyf** baðstofa
**baðmull** (bómull†) baðmolía baðmur
**bagall**: bagals bagli baglar
**bagi** bagalegur
**bagl** bagladur
**bakferlast** bakhverfa bakhjarl (hvk bakhjall†, bakjarl†; hjarl = land) bakrígur bakspyrna bakstur
**Bakkárholt** (Bakkarholt†)
**bannsetning** bannsyngja
**barnaglingur** barnavipur barnsfylgja barnskírn barnsæska
**barefli** barist (af að berjast) barsmíð
**bar** barskógur
**batna**
**bazt**: þú bazt; heyið bazt illa (af að binda)
**bauðst**: þú bauðst, mér bauðst (þát. af að bjóða)
**bautasteinn**
**bábilja**
**báðumegin**
**bági** bágindi bágur
**bákn** bákna
**beggja** (ef. flt. af báðir)
**begla**, sbr. Rímbegla
**beiða** (beiddist beiðst) beiðni beiðsla
**beiðst**: þú beiðst (af að bíða)
**beiskur** [s. besk] beiskja beiskyrði (beizkur†)
**beita** beitivindur
**beizli** beizlismél beizlisstengur
**beizt**: þú beizt (þát. af að bíta)
**Bekansstaðir**
**bekkjast** bekni [bekkinn]
**bendla** (bendlaði), bendill (bendlar)
**bera**: eg ber, þú ber (berð†), bar báru bæri borið borist
**Bergþórshvoll** (Bergþóruhvoll†)
**berja**: eg ber, þú ber (berð†), barði börðu berði barið barist
**berkill** (flt. berklar)
**bernska** bernskubrögð
**berserkur** (beserkur†) bersyndugur bersögli beryrði
**bessi** [bersi] bessaleyfi
**beztur** (bezt)
**beygja** beyging beyglast beyglur
**beygur** (ótti)
**beyki** (bæki), beykir (flt. beykjar)
**beysinn** beysta (berja)
**biblía** = biflía
**bifa** bifreið bifröst

**bikkja** (bykkja†)
**bil** (t. d. millibil) bilbugur bilgjarn bileygur bilt: verða bilt við. En bylur=hvassviðri
**bimbult** (bumbult†)
**binda**: eg batt, þú bazt, bundu byndi binzt (bazt), bindi (á bók), bindindi
**bingur** (haugur)
**birgðir** (forði) birgja birgur, (til) bráðabirgða heybirgðir vörubirgðir sjálfbirgingskapur. En byrgi=skýli; byrgja=hylja, loka; ennfr. ábyrgð
**birki** birkiraftur birkja (taka af börk, birkja hest)
**birna** (kvenbjörn), birni (þgf. af björn), birnir
**birta** birting birtingur
**bisa** við e-ð
**biskup** (byskup†) biskupsmítur
**bitill**: bitli bitlar, bitlingur
**bittu** (boðh. af að binda)
**bíða**: þú beiðst, bíddu mín
**bílda** bíldóttur bíldur
**bílífi** [es. biliofa]
**bíræfni** bíræfinn [g.d. beræven]
**bjarg-kviður** bjargsig
**bjarnfeldur** bjarnigull bjarnylur
**bjóða**: býð bauð bauðst byði boðist
**bjúga** bjúgur
**Björgvin**: til Björgvinjar, frá Björgvin
**björn**: ef. bjarnar, þgf. birni, flt. birnir björnu (birni) bjarna björnum
**Björn** (Bjarnar) Björnsson, sbr. Guðmundur (Guðmundar), en Guðmundsson
**blaðstýft** blaðstýfing
**blaka** (blaðka†)
**bláeygur** bláfeldur bláfjallaður blágrýti blálenzkur blámaður blárendur
**bleikálóttur** bleikja bleikur

**bleyða** bleyðiorð bleyðiskapur (bleyðuskapur†)
**bleyta** bleyti
**blik** blikna
**blindbylur** blindfylla
**blíða** blíðlyndi blíðviðri blíðyrði
**blína**: einblína
**blístra** blísturshola
**bljúgur**
**blóðrefill** blóðrisa blóðsegi
**blótneyti** blótsyrði
**blygð** blygðast blygðunarleysi
**blys** blysför
**blý** blýant blýskeyti blýsteyptur
**blæja** blær blævængur
**boðist** (sb. af að bjóða)
**bogi** bogna bogra bogsveigir
**Borðeyri**
**borist** (sb. af að bera)
**botn** (botns) botnleysa botnvörpungur (-verpill†, -verpingur†)
**bófi**
**bógsiga**
**bókahilla** bókaleifar bókfell bókun bókmentir bókskygn
**bólginn** bólgna
**braml** bramla
**bragningur**
**brattgengur** brattgengi
**bráðabirgð** (-byrgð†): til bráðabirgða
**bráðaþeyr** bráðendis bráðlyndi
**bráðna** brátt
**brást**: mér brást það (þát. af að bregða)
**bregða**: brá brást brugðu brygði brugðist
**Breiðabólstaður** (Breiðibólstaður†) Breiðafjörður (Breiðifjörður†)
**breikka** (breiðka†)
**breima** [um kött, brími = eldur, hiti]

**brekan** (brekán†)
**brengla**
**brenna** brensla
**bresta**: brast brustu brysti brostið
**breyskur** [brjósk] breyskleiki
**breyta** breytni
**brezkur** (frá Bretlandi)
**bréf** bréfaveski bréfspeldi
**brigð** brigða brigðlyndi brigðmæli
**brigzl** brigzla brigzlyrði
**bringspölur** (-spelir, -spalir†; bringsmalir†)
**bris**
**Brjánn** Brjánslækur
**brjósk**
**brjóta**: brýt braut, þú brauzt, brutum bryti brotið; brýzt brauzt (hann brauzt um)
**brotna**
**brottfýsi** brotthvarf brottvist
**bróðerni** bróðir (bróður: finna bróður sinn; hestur bróður míns; gefa bróður sínum)
**brugðist** (sb. af að bregðast)
**brullaup**=brúðkaup
**brú**: brúar, flt. brýr brúa
**brúðhvíla** brúðkaup
**brúður**: brúði brúðar brúði brúðir
**bryðja** (skass); að bryðja: bruddi brutt
**brydda** brydding, (það) bryddir (á)
**brygði**: eg held að honum brygði við (vþ af að bregða)
**bryggja**
**Bryndís** bryndreki brynja Brynhildur Brynjólfur Brynleifur
**brynna** brynning
**brynni**: ef húsið brynni (vþ. af að brenna)
**brysti**: ef mig brysti (vþ. af að bresta)
**bryti** (ef. bryta) brytja
**bryti**: ef eg bryti (vþ. af að brjóta)
**-brýði**: afbrýði
**brýna** brýni brýnsla
**-brýndur**: sambrýndur skolbrýndur
**brýnn**: brýn nauðsyn
**-brýnn** léttbrýnn þungbrýnn
**brýr** (flt. af brú)
**brýt**: eg brýt (af að brjóta)
**bulungur** (buðlungur†) = viðarb.; en buðlungur (konungur)
**burðareyrir**
**burst** bursti burstígull
**burtrýma**
**buxur** (brækur)
**búferli** búmenska búsafleifar búsifjar
**byða**: flautabyða, byðukolla
**byði, byðist**: ef eg byði, ef mér byðist (vþ af að bjóða)
**bygð** bygðarleyfi bygðfleygur
**bygg** Bygg-garður bygg-grjón
**byggi**: ef eg byggi (vþ. af að búa)
**byggja**: bygði bygt, bygging
**bylgja** bylgjugangur
**bylja**: buldi byldi (þó að veðrið byldi á tjaldinu) bulið, byljóttur bylur
**bylta** bylting umbylting
**byndi**: ef eg byndi heyið (vþ. af binda), byndin: kornbyndin
**byr** byrja (honum byrjaði vel): hraðbyri
**byrða** (ílát), að byrða (skip), byrðingur: einbyrður, síbyrða
**byrði** (ef. byrðar)
**-byrðis**: útbyrðis síbyrðis
**-byrgð**: ábyrgð. En birgðir=forði
**byrgi** (skýli) byrgiskona byrgja (hylja, loka): fjárbyrgi forbyrgi snjóbyrgi
**byrja** byrjendur byrjun
**-byrja**: óbyrja
**byrla** byrlari

**byrstur** byrsta sig
**byssa** byssubrendur byssuskefti
**bytna** (ná til botns): tvíbytna
**bytta** (ílát): blekbytta mjaðarbytta skriðbytta
**bý** býfluga
**býð**: eg býð (af að bjóða)
**býfa** (fótur)
**býli**: híbýli (býhýli†) sambýli
**-býlingur**: frumbýlingur
**býll**: árbýll fornbýll harðbýll
**býr** (bær) Býjasker
**býsn** býsna-mikill býsna-reiður
**býta** [bútur]: býtti býtt; útbýta
**býti**: bera úr býtum; í býti (snemma morguns)
**bægifótur** Bægisá
**bæginn**: meinbæginn, meinbægni
**bægja**: bægði bægt
**bægsli** [bógur]
**bæjarfógeti** bæjardyr bæjarhverfi
**bæki** bækiskógur
**bæklingur**
**bænakvak** bænheyrsla
**bær**: bæjar bæir bæja bæjum
**bæta**: bætti bætt bæzt
**böggull**: bögli böglar, böglast
**bölbæn** bölva bölvun

**dafna**
**dalsmynni**
**Dagverðarnes** Dagný
**Danmörk** (Danmerkur), danskur
**dans** dansa dansleikur
**Dauðahaf** dauðdagi dauðyfli
**daufheyrast** daufheyrður
**dazt**: þú dazt (af að detta)
**dá** dálegur dálæti dást að e-u (dázt†), hafði dáðst að því
**dáðleysi** dáðleysingi
**degi**: hádegi, miðdegi
**deig** deigla deiglendur deigur
**deigulmór** [tigulmór?]
**dekstra** dekur
**demba**: dembdi dembt
**dengja** denging dengsla
**depill**: depil depils depli deplar, depla augum
**detta**: datt dazt duttu dytti dottinn
**deyða**: deyddi deytt
**deyfa** deyfð
**deyja**: dey dó dóum dæi (dæði†) dáið
**digna** [deigur]
**dilkur** dilkær
**dilla**: dillandi rödd
**dimma** dimmur dimmviðri
**dindill** (dindli dindlar)
**dingla**
**dint** dinta dintur
**dirfast** dirfð dirfska
**dígull**: hordígull (hordingull†)
**díki** díkisgröftur
**dílaskarfur** dílasótt díli díll
**dís** dísablót: Freydís Jódís ljóðadís söngdís Þórdís
**djúpsæi** djúpsær (-sæir,-sæjum)
**djúpsævi** (djúpur sjór)
**dofi** dofinn dofna
**dornikur** [Doornik í Flandern; dorningur†]
**dóttir**: dóttur (í öllum öðrum föllum eint.), dætur dætra dætrum
**drafli** (drabli†) drafna
**draga**: dreg dró dróst (drógst†) drógum drægi dregið dregist, dragi drag-kyrtill
**dragna** dragnast
**drasill** (drösull): Yggdrasill
**dregill**: dreglar dregla
**dreif** dreifa dreifing dreifskyti
**dreitill** dreitla

**drekka**: drakk drukku drykki drukkinn druknir
**drekkja**: drekti drekt
**drenglyndi** drengskapur
**dreyma**: dreymdi dreymt
**dreypa** dreypifórn
**dreyra** dreyri dreyrrauður
**drif** drifhvítur drift
**drífa**: snjódrífa
**dríli** dríldinn (drýldinn†)
**drjúgur**
**drjúpa**: drýp draup drupu drypi dropið
**drottinhylli** drottinn: drottin drotni drotnar, drottinsvik drotna (yfir e-m) drotning
**drög** (hross, byrði)
*drög*, *drögst*† = dró, dróst
**drukna** druknun
**drykki**: ef eg drykki (vþ. af að drekka),drykkja drykkur drykklangur
**drynja**: drundi dryndi, drynur
**drypi**: ef vatnið drypi (vþ. af að drjúpa)
**drýgindi** drýgilegur drýgja drýgri drýgstur
**drýp**: eg drýp (af að drjúpa)
**drægsli** drægni: tvídrægni
**dröfn** dröfnóttur
**dröngull** (dröngiar)
**Dufansdalur**
**dufl** dufla
**duft** duftberi dust
**dul**: draga dul á (dulur†), dulgreypur dullyndi dulspeki
**Dumbshaf**
**Duná** (= Donau)
**dúfa** dúfu-ungi
**dúnn** dúnbnoðri
**dygð** dygði: ef það dygði (vþ. af að duga), dygðugur dyggleikur dyggur
**dyldi**: ef eg dyldi (vþ. af að dylja)

**dylgja** dylgjulegur
**dylja**: duldi dyldi dulinn
**dymbill** dymbilvika
**dyndi** (vþ. af að dynja) dynfeti dynjandi dynkur dynskot dynur
**dyngja**
**dynja**: dundi dyndi dunið
**dynkur**
**dyr** dyragætt dyraumgerð dyravörður Dyrhólaey
**dyrgja** (kvendvergur)
**dys** (ef. dysjar), dysja
**dytta** dyttur
**dytti**: ef eg dytti (vþ. af að detta)
**dý** (veita)
**dýfa** dýfing: ídýfa
**Dýflinn** Dýflinnarskíri
**dýflissa**
**dýja** (hrista): dúði dúð
**dýna** dýnuver
**dýpi** dýpka dýpri dýpstur dýpt
**dýr** (skepna): bjarndýr hreindýr
**dýr** (kostn.s.) dýrgripur dýrkeyptur
**dýrð** dýrðardæmi
**dýrka** dýrkun
**dýrlingur** (dýrðlingur†) dýrmætur
*dæði, dæðum*† = dæi, dæjum (vþ. af að deyja)
**döf** (á döfinni)
**dögg** (döggvar, daggar†)
**dögurður** = dagverður
**dökna** dökkur(dökkvan) dökkvi

**Edínaborg**
*Efferseyj*† = Örfirisey
**efja**
**efla**: efldi eflt, efldur: hríðefldur tvíefldur (tvíelleftur†)
**efna**: efndi efnt efnd efni
**efri** efstur

**eftir** eftri [aftur] efstur = aftastur eftirbreytni eftirgrenslan eftirhreyta eftirleifar eftirmynd
**eg** (mig mér)
**eggskurn** (kvk, eggskurm†)
**Egill** (þgf. Agli, Egli†)
**egna**: egndi egnt
**Egiptaland** (Egyftaland†) egipzkur
**eið** (grandi) Eið (Eiðar† Eyðar†) Eiðaskóli Eiðsvík Eiðsifjaþing
**eiður** eiðspjall
**eiga**: átti ætti átt, þeir höfðu ázt ilt við; eigulegur
**eigi** (= ekki), eigóður (= sígóður) eilítill (= mjög lítill), eilífur eimuni
**eiginn** (eigin eigins eignum, flt. eignir), eigingirni eiginleikur eiginlegur eiginmaður
**eign** eigna eignast
**eigra**
**eik** (tré), eiki (viður), eikikylfa eikiskógur eikja(bátur)
**eima**: það eimir eftir af
**eimur**(gufa; hljómur) eimreið eimskip eimyrja
**einangra** einarður(einart) einbirni einbýli eindagi eindreginn eindrægni eindæmi eineiði eineygður eineyringur eingirnispeysa [garn] einfaldur einfeldni eingöngu eingyði einhendis Einherjar einhleypur
**einatt** [einart]
*einginn*† = enginn
**einhver** einhvers einhverrar einhverjir einhverstaðar
**einhverfa** einhverfur einhyrndur
**einhleypingur** einhleypur
**einhlítur** (einhlýtur†)
**einir**: eini einis, einiber (einirber†)
**einka**- einkadóttir einkamál einkavinur
**einkanlega**
**einkar**- einkar-hollur, einkar-mætur
**einkunn** (einkunnar, flt. einkunnir)
**einmani** e. einmana, einmelmi einmitt einsamall (einsömul einsamalt einsamlir) einskefta einskær einstaka einstakur einstigi einsýnn einurð einurðarleysi
**einskis** einskisvirði
**einvirðulega** (innvirðulega†), einvígi einyrki einþykki einþykni
**eir** (málmur) eirbaugur eirþynna
**eir** (vægð) eira eirð: óeirð, eirinn: óeirinn Eirný
**Eiríkur** (Eyríkur†)
**eisa** eiskra
**Eistland** (Estland) Eistur
**eista** (testiculum)
**eitill**: eitil eitils eitli eitlar
**eitur** eiturkveisa
**ekkert** (hvk. af enginn) einskis engu
**ekkill**: ekkil ekkils ekli eklar, ekkja (ef. flt. ekkna)
**ekla** fólksekla o. s. frv.
**elda** eldgígur eldkveikja, eldneyti e. eldsneyti, eldsgögn eldstó
**elfur**: elfar elfi elfar, elfskur
**ellefu** ellefti
**elskhugi**
**Elliðaá** Elliðaey Elliðavatn
**elztur** [eldri]
**embætta** embætti embættlingur
**en** (samtengingarorð): en hitt er það, heldur en, sbr. enn
**endalykt**
**endemi** [eindæmi]
**endir**: endis endi, endileysa
**endranær** [endrarnær]
**endur** fyrir löngu, endur (endrum) og sinnum
**endurleysa** endurnýja endurnýjung
**engan veginn** (enganvegin†)

**enginn** engin ekkert (engan enga ekkert; einskis; engum engri engu; engir engar engin; enga engar engin; engra; engum)
**engi** engiteigur engjar engjarós
**engjast**
**enn** (atviksorð = enn þá): enn sem komið er, enn betur o. s. frv.
**erill**: erils erli
**erindi** erindreki
**erfa** erfð erfðafé erfi erfisdrykkja
**erfiða** [þ. arbeiten] erfiði erfiður (erviður†)
**erja**: arði örðu erði arið
**-erla**: fóerla maríuerla (maríuatla†)
**erlendis** Erlendur (Ellindur†)
**ert**: þú ert
**eta**: át ázt (þú ázt) átum æti etið; heyið ázt illa
**etja**: atti att, etjukostur
**ex** (stafurinn x)
**ey** Eydís eyfirzkur, -eyingur (Færeyingur, Flateyingur) eyja eykyndill eyland eyjarskeggi
**eyða** [auður]: landeyða; (að) eyða: eyddi eytt: óeyddur gjöreyddur; eyðing eyðsla: fjáreyðsla
*Eyðar*† = Eið (Eiðar†) Eiðaskóli
**eyði** [auður] eyðiey eyðilegur eyðimörk. En eið = grandi, og eiður = svardagi
**eygja** (koma auga á), eygður (vel eða illa, eineygður, úteygður), -eygur (bjarteygur, bláeygur)
**eygla** (baugótt ær), eyglóttur
**eygló** (sólin)
**eyk**: eg eyk (af að auka)
**eyki** (akfæri), eykur (akdýr)
**eykinn** (mannýgur)
**eykt** (þrjár stundir) eyktamark
**Eyhildarholt** Eyleifur
**eyma** eymd eymdur eymsli
**Eymundur** Eyólfur (Eyjólfur†)
**eyra** (hlustarfæri) eyrnaskefill, eyrður: langeyrður, eyruggi. En að eira = vægja.
**Eyrarbakki** Eyrarsund Eyrbyggjar eyri: Helsingjaeyri, Langeyri. En eir = vægð; og eir = málmur
**eyrir**: eyri eyris aurar, -eyringur: tíeyringur tólfeyringur
**eys**: eg eys (af að ausa)
**eysill** (smá-ausa)
**-eyskur**: færeyskur suðureyskur
**eystri** Eystrasalt
**Eyvindarholt** Eyvör
**ég** (mig mér)
**él** éljagangur éljóttur
**éta**: át ázt átu æti étið

**faðir**, þf. föður, ef. föður (föðurs†) þgf. föður, flt feður feðra feðrum, föðurkyn föðursystir
**fagna** fagnaðaróp fagnafundur
**Fagrabrekka** (þgf. Fagrabrekku), Fagradalur (Fagridalur†), Fagraskógur (Fagriskógur†)
**falda** faldur, -faldur: einfaldur margfaldur tífaldur
**falla**: fell féll félli félst fallist
**fannkingi** (fannkyngi†) Fanntófell
**fara**: fer, þú fer (ferð†), fór færi farið farist
**farareyrir** fararleyfi
**farfi** (farvi†)
**farfýsi** fargervi farsæld farþegi (farþegar farþega farþegum)
**farið**: t. d. því er þannig farið (varið†)
**fastna** fastnæmur fastúðugur
**fatlaður** fatlast (fatli†)
**fatrast** (t. d. sund, fatast†)

**fax** faxi: Freyfaxi, Faxaflói
**fá**: fæ fekk (fékk) fekst (fékst) fengum fengi fengið fengist
**fága** fágaður fáður
**fáheyrður** fákynstur fályndi fánýtur fávizka fáþykkja
**fálma**
**feðgar** feðgin
**feginn** feginsaga fegins-hendi
**feigð** feigur
**feikilegur** feikn feiknamikill
**feitmeti** feitæti
**Feitsdalur** (Feigsdalur†)
**fela**: fel fal (fól) fálu (fólu) fæli fólginn (falinn)
**-feldur**: geðfeldur hagfeldur nærfeldur (nærfelt) samfeldur (samfelt) sífeldur (sífelt) skapfeldur smáfeldur stórfeldur voðfeldur
**fell** Fellahreppur (Fellnahr.†) fells-[endi
**-feldinn**: viðfeldinn
**felmta** felmtaður (felmtraður†) felmtur (ef. felmts, felmturs†) felmtsfullur (felmtursfullur†)
**Feneyjabotn** Feneyjar
**fengi**: ef eg fengi (vþ. af að fá) fenglítill fengsæll fengitími fengsamur fengur
**fenna**: fenti fent, -fenni: harðfenni
**ferhyrndur** fermíla (=ferhyrningsmíla) ferskeytla ferskeyttur ferstrendur fertugfaldur ferær (bátur) feræringur ferærður (með 4 árum á borð)
**ferill**: ferils ferli ferlar
**ferlegur** ferlíkan ferlíki
**-ferli** [ferill] atferli búferli málaferli misferli skapferli undirferli víðferli vígaferli. En úrfelli
**Ferstikla** (Fetstikla†)
**fetill**: fetils fetli fetlar, Fetlafjörður
**feyja** (gera fúinn): feyði feyð (feygja†)
**feyja** = fúi
**feykja**: feykti feykt
**feyra** feyrður
**feyskja** feyskinn
**fé** (fjár, flt.fé) fégirnd fégyrðill fégætni féhirzla félagi féleysi fénýta fésínkur féskifti féskygn
*féndur*† = fjendur
**fiðrildi** [fífrildi]
**fikra** sig
**fildast** (um kind) fildinn
**filla**: kinnfilla vangafilla
**filungur** (fugl, fýlungi†)
**fimbulfamba** fimbultýr
**fimi** (fimni†) fimleiki
**fimm** fimt fimtarstefna fimtán fimtíu fimtugur
**finna**: fann fyndi fundinn
**finngálkn** finnungur (gras) Finnur (Finns Finnsson, Finsson†) finskur
**fipa** fipla (snerta). En fífla (konu)
**firar** (menn, fírar†, fýrar†)
**firð** (fjarlægð) firn firnadjarfur firna (ámæla), firr (fjær), firra (tiktúra) fjarlægja (forða), firri (fjarlægari) first (fjarlægjast), firstur (fjarlægastur)
**firði** (þgf. af fjörður) -firðingur (Breiðfirðingur Vatnsfirðingur) firðir (margir firðir), -firzkur (vestfirzkur)
**fis** [þ. fese, fþ. fesa, gr. pisos] fisað saman
**fiski** (ef. fiskjar) fiskafli fiskgengd fiskinn fisklýsi fiskveiði (fiskiveiði†); að afla fisks (fiskjar†)
**fit** fitfugl fitja
**fitla**
**fitna**
**fífa** fífill (fífils fífli fíflar) fífilbleikur
**fífl** fífla fíflska fíflskur
**fíkinn** fíkni (fýkn†)
**fíkja** (ávöxtur)

**fill** (spendýr) filstennur
**fisa** fisibelgur fisisveppur
*firar*† = firar
**fjall** (ef. fjalls) fjallbygð fjallhrapi (fjalldrapi†) fjallsgnípa fjallshvilft fjallsýnningur
**fjalla** (um e-ð; fjatla†)
**fjandi**: fjendur (féndur†) fjanda fjöndum
**fjargvefjast** fjargviðrast
**fjarlægð** fjarlægur fjarri (fjær†) fjarski fjarska-mikill fjarstæður fjarsýnis fjarvist (fjærvist†)
**fjálgleikur** fjálgur
**fjárafli** fjárbyrgi fjáreyðsla fjárgeymsla fjárgæzla fjárhirzla fjárneyzla fjárnyt fjárreitur fjárþurð.
**Fjós** (flt bæjarnafn, Fjósar†)
**fjúka**: fýk fauk fukum fyki fokið
**fjær** (= lengra burtu)
**fjögurra** og fjögra (ef. flt. af fjórir)
**fjölbreytinn** fjölbreytni fjölbygður fjölga (þeim fjölgar, þeir fjölga) fjölgyði fjölkyngi fjöllyndi fjölment fjölskylda fjölyrða
**fjör** (fjörvi), Fjörgyn (Fjörgynjar) fjörráð fjörsegi (hjarta)
**fjörður**: fjarðar firði; firðir fjörðu e. firði, fjarða fjörðum (Fjörður† kvk.)
**flagð**
**flagna**
**flasfengi**
**flaska** (flazka†)
**flaumósa** = flumósa
**flá**: flæ fló flógum flægi fleginn
**fleiðra** fleiður
**fleipra** fleipur
**fleiri** (fleirri†), flestur
**flekkun** flekkja flekklaus flekkóttur flekkur (flekks flekkir flekkja)
**flenging** flengja
**flenna**: flenti flent, flenneygur

**flens** flensa
**flet** (flets, fletja fletjum), að fletja
**fletta** flettiskefta
**fley** (skip)
**fleygja**: fleygði fleygt, fleygur: tréfleygur; fleygur (um fugl)
**fleymingur** [flaumur]: hafa e-ð í fleymingi
**fleyta** fleytifullur
**flétta** fléttingur fléttuband
**flikki**: kjötflikki; fliksa
**flim** [flím] flimska flimt flimta
**flipi** (á hesti)
**fliss** flissa [s. fliss]
**flík** (fat)
**flírulegur** flírur
**flís** [þ. fliese, d. flise] flísa
**fljót** fljóta: flýt flaut flauzt (þú flauzt) flyti flotið
**fljótt**: fljótara (fljótar†), fljótast fljótvirkur
**fljúga**: flýg flaug flugu flygi flogið
**flog** flogkveisa
**flosna** flossessa
**flotnar** (farmenn)
**flótti** flótt-styggur
**flug** flugdreki flugstigur
**flumósa** = flaumósa
**flutningur** fluzt (sb. miðm. af að flytja)
**flyðra**
**flygi** flygist: ef hænan flygi, ef strákarnir flygist á (vþ. af að fljúga)
**flykkjast** flyktist flykst
**flysja** [flos] flysjungur
**flyti**: ef eg flyti (vþ. af að fljóta) flytja
**flytja**: flutti flytti, hefi fluzt
**flýg**: eg flýg (af að fljúga)
**flýja**: flý flýði flúinn
**flýt**: eg flýt (af að fljóta)

**flýta**: flýtti flýtt, flýtir flýtisverk (flýtirsverk†)
**flæðarmál** flæðisker flæður (flæði flæðar)
**flögra**
**flökta**
**fnasa** = fnæsa, fnýsa
**Fnjóskadalur** fnjóskur fnjóskþur
**fnýsa**
**forað** (foræði†)
**forátta** foráttubrim
**forbergis** forbrekkis forbrekt forbyrgi fordild fordyri fordæða foreldri (foreldrar), forhleypi forkunnar- (forkunnar-fríður)
**forlagseyrir**
**fornbýll** forneskja fornfálegur forngildur forngrýti fornleifar fornyrði fornyrtur
*fornspár*†=forspár
**fors** (reiði, ákefð). En foss=vatnsfall
**forsjáleysi** forsjáll forsjálni forspá forspár forspjall Forspjallsljóð forsprakki forstreymis fortakslaust
**forusta** forustusauður forynja
**foss** [fors] fossa fossúði
**fóarn** (í fugli)
**fóðurbirgðir** fóðurskortur
**fóerla** (fugl): Fóerluvötn
**fógeti** [l. vocatus, þ. vogt]
**fórn** fórnarhleifur fórnfæra
**fósturneyti** fóstursystir fóstursystkin
**fóthvatur** fótskemill fótstirður
*frag*† =fræ
**Frakkar** Frakkland frakkneskur (franskur)
**fram** (framm†) frambyggjar framfærsla framfætur framgengt framgirni framhleypni frami framliðinn frammi frammyntur framsýni framsýnn framvegis
**franskur**=frakkneskur
**frábær** fráhverfur fráleitur
**fráneygur** fránn
**freðfiskur** freðýsa
**fregn** fregna fregnvís
**freista** freistni
**freknóttur** freknur
**fremd** fremdarverk fremri
**freyða**: freyddi freytt
**Freydís** Freygerður
**Freyja**: húsfreyja, Freyr Freysgyðlingur Freysteinn
**frétt** frétta (hefir frézt) fréttinn
**Friðgeir** Friðleifur Friðný
**friðill** (friðils friðlar)
**Frigg** (Friggjar)
**frilla** frillulifnaður
**fritt**: henni er ekki fritt þar
**fríkka** (fríðka †)
**Frísir** Frísland frískur (frá Íslandi)
**frjóangi** frjóva (frjóvga†) frjóvast frjókorn frjór (þf. frjóvan) frjósamur frjósemi
**frjósa**: frýs fraus frysi frosinn
**frostdröngull** frostleysa
**frumbýlingur** frumgetnaður frumkvöðull(-kvöðlar) frumvarp frumvaxta
**frunti** [sk. frunty] fruntaskapur
**frú**: ef. frúar, flt. frúr
**frygð** [l. fructus]
**frysi**: ef mjólkin frysi (vþ. af að frjósa), frysta frystihús frystir
**frýja**(e-m hugar), frýjuorð
**frýnast** frýnilegur frýnn
**frýs** (í hesti), frýsa
**fræ** (frag †), fræhylki fræköngull
**frægðarför** frægja (gera frægan): ófrægja víðfrægja
**fræknlegur** frækleikur

**frændastyrkur** frændleifð frændrækni
**fræva** (frævast) = frjóva
**fuðryskill** (marhnútur)
**fugl** (fugls) fuglshreiður
**fullefldur** fullgildur fullgera fullhugi fullkeyptur fulllengi
**fullnaður** (t d. til fullnaðar) fullnaðarvitni
**fulltingi** fulltingja
**fullur**: fulls (fuls †) fullra
**furða** furðulegur furðuverk
**fúllifnaður** fúlmenska fúlna
**fygla** (veiða fugla) fygling
**fyki**: ef heyið fyki (vþ. af að fjúka)
**fyl** fylfull fylhross fylja
**fylgd** fylgi fylgja fylgjendur
**fylgsni** [fólginn] fylksni † fylskni †
**fylki** fylking fylkir fylkja
**fylla**: fylti fylt, fylli fylling fyllri fylstur
**fyndi**: ef eg fyndi (vþ. af að finna) fyndinn, fyndni
**fyr** (áður, áður en), fyrri fyrrum fyrst fyrstur.
**fyrðar** (menn)
**fyrir** fyrirgera fyrirhyggja fyrirhöfn (fyrirhafnar), fyrirmenska fyrirmynd fyrirætlun
**fyrnast** fyrnd fyrnska
**fyrst** fyrstur
**fyrtast** fyrtur [furtur]
**fýk**: eg fýk (af að fjúka)
**fýla** fýlulegur
**fýll** e. fýlungur (fugl)
**Fýri** (á), Fýrisvellir
**fýsa** (fýsti fýst), fýsilegur fýsn fýst
**fýsi**: farfýsi sáttfýsi
**fæðsla** fæðsluleysi
**fægja**: fægði fægt

**Færeyjar** færeyskur
**fætur** (flt. af fótur): fæturnir, þf. fæturna (fæturnar †, kvk.!)
**föður** (af faðir, föðurs †), föðurleifð, föðursystir
**fögnuður** (fagnaðar)
**föggur**
**fölleitur** fölna
**fölskalaus** fölski (fölskvalaus†)
**fölur** (fölan e. fölvan, fölir) fölva
**förla** förull

**gafl** gaflhlað
**gagl**
**gagn** gagna gagnaugu gagngert gagnlegur gagnslaus gagnstæður gagnsær (gagnsæir gagnsæjum)
*gagndagur* †=gangdagur
**galeiða**
**galgopi**
**galsi**
**galtómur**
**gamall**: gamals gamallar gamlir gamalla (gamallra†), gamalær gamlaður gamlársdagur
**gambra** gambur gamburmosi
**gammi** (finskur kofi)
**gammur** (fugl)
**gandreið** gandur Gandvík
**ganga**: geng gekk gekst gengið gengist
**gangdagur** (es. gangdäg) gangdagavika (gagndagur †)
**garðyrkja**
**gaspra** gaspur
**gata** gatnamót
**gauð** gauða gauðrif
**gaul** gaula Gaul (á), gaulverskur
**gaumgæfa** gaumgæfilega
**gaupn** (gaupnir)

**Gautar** Gautland gauzkur
**gá**: hundgá
**gáfa**: gáfur gáfna, gáfulegur
**Gásir** (örnefni, Gæsir†)
**gáski**
**geðfeldur** geðfró geðjast geðleysi geðstirður geðstyggur geðþekni
**gefa**: gaf gáfu gæfi gefist, gefins
**Gefjun** Gefn
**geggjaður** geggjast
**gegn** gegna gegnd gegndarlaus gegning gegnt (beint á móti, gengt †) gegnum
**geifla** [es. geaflas]: geifla á salti
**geiga** geigur geigvænlegur
**geil** [gil]: grasgeilar heygeil
**geimur** (geymur †): alheimsgeimur himingeimur
**geip** geipa
**geir** geirfálki geirfugl geirhvalur
**geisa** (æða, skunda): sótt geisar [Ulf. gajsjan, þ. gise]. En geysa (láta gjósa, þjóta) geysilegur
**geispa** [d. gispe] geispi
**geit** [s. get]: ef.flt. geita, geitbjálfi
**geitla** (jurt) geitlunjóli geitungur
**gekst**: þú gekst (af að ganga)
**gelda** geldneyti
**gelgja** gelgjuskeið
**gella**: gall gullu gylli gollið
**gelt** gelta
**gelti** (þgf. af göltur)
**gemlingur**
**gengd**: fiskgengd laxgengd. En gegndarlaus
**gengi** gengur
**gems** gemsa gemsmikill
**gepill**
**ger** (gráðugur)
**ger** (hleypir)
**ger**=gerður (svo e. svo)
**ger-**: gereyða gersemlega gersemi gerspiltur gerv-allur gervöll gervalt)
**gerð** (ólga; athöfn; lag)
**gerði** Gerði (flt., Gerðar†) gerðistún
**Gerður** (Gerðar): Ásgerður Hallgerður
**gerzkur** (frá Garðaríki)
**getnaður** getnaðarfýsn
**getsakir** getspeki
**geyja** (geyr, gó)=gelta
**geyma** geymsla
*geymur* †=geimur
**geysa** [gjósa]=láta gjósa e. þjóta, geysti geyst: fara geyst, geysilega geysimikill Geysir. En geisa=æða skunda
**gift** gifta gifting giftusamlegur
**gigt** gigtarflog
**gikkur** gikkshàttur gikkslegur
**gil** Gil (flt., Giljar†) Gilsbekkingar gilsbotn
**gilda**: mig gildir einu
**gildi**: algildi ígildi, gildaskáli
**gildna** (verða gildur=digur)
**gildra**: músagildra o s. frv.
**gildur**: algildur, tvígildur; sömul. =digur
**gilja** gilmaður
**gim** gimsteinn
**gimbur** (gymbur †) gimbill gimbrarlamb
**gin** ginfaxi ginkefli
**ginn-** ginnheilagur ginnregin Ginnungagap
**ginna**: ginti gint, ginning ginningarfífl
**girða** (með garði) girti girt. En gyrða (með gjörð)
**girna** girnast girnd girndarráð girnilegur
**-girni**: metorðagirni þrætugirni
**-girni**: eingirni (eingirnispeysa)
**gisinn** [s. gisten], gisna gistentur

